# Raunatölur

yfir Líkkistu

# Bjarna sál. Sivertsen.


Fluttar

af

Módurbródur hans

H. G. Thordarsen

Dómkyrkjupresti og R. af Dbr.



Reykjavik, 1845.

Prentadar á kostnad *Lect. Theol.* J. Jónssonar, R. af Dbr.,

af Helga Helgasyni.

Gódi Gud! géf oss nád til ad géta gjørt oss ánægda med þann vonda daginn, þegar hann kaldur, dimmur og hretvidrasamur byrgir so hinn fagra himin fyrir oss, ad vér um tíma komum ekki auga á hann, já, sjáum hann ekki um litinn tíma, þángadtil dimmunni lyptir upp aptur, og vér fáum á ný ad sjá himininn heidskýran. — Kjærleika þínum er líkt varid og himninum, því þó himininn sé hulinn dimmum myrkranna skýum, þá skín þó sólin á honum altadeinu, og stjørnurnar tindra á honum eins fyrir þad, þó menn hvørugt sjái, þó augánu sýnist þad sé svipt hvørutveggi. — Þú, ástríki Fadirinn! ert oss optlega sem hulinn Gud, og þó ertu hvørgi og aldrei fjærlægur børnum þínum. — Æ! þú ert þeim nálægastur, þegar þeirra harmþrúngin hjørtu þurfa þín hvad mest vid, þegar táraskýin byrgja fyrir þeim þinn himin. — Hvørsu nærri muntu þá vera oss á þessari sorgarstundu, þegar foreldrarnir gráta úngan og efnilegan son, sem var gédþekkur bædi Gudi og mønnum? — Já, gódi Fadir! þú ert oss nú vissulega nálægur, og þú munt senda anda huggunarinnar hrelldum foreldrum og øllum gódum sálum, sem samhryggjast þeim, þú munt kénna þeim ad aud-

mýkja sig undir þína voldugu, en þó fødurlegu hønd, þú munt einnig styrkja mig, og fyrirgéfa mér rauna-tølur hjartans.

Eg á, elskulegu tilheyrendur! ad mæla eptir kjær-an og nákominn ættíngja, og tilfinníng mín er med því móti, ad eg gét ei samid ræðu ad þessu sinni, en verd ad tala eins og sá, sem ekki veit, hvad hann á ad tala, en mælir þad framm, sem fyrst kémur í mæddan og hryggan huga. — Eptir miklu er ad sjá, þar sem hinn framlidni er. Hann var ágjætlega gáfadur únglíngur; og sameinadi vid þad ydjusemi, stillíngu, stødulyndi og óhagganlega rádvendni — og sona var hann frá upphafi. Þegar í æsku vott-adi so til alls þessa hjá honum, ad allir þeir, sem þekktu hann, tóku til þess, og sá var einginn, sem ei áliti hann besta mannsefni; hann sýndist snemma af Gudi gjørdur til vitnisburdar yfir heiminum, til ad sýna dygdarinnar sóma, þeim sem ei vilja trúa, og sannfæra þá, sem á móti mæla. Fáir munu hafa þekkt æskumann, sem eins sameinadi alltsaman, í fag-urri einíngu, mannkostina, gáfurnar og stillínguna. — Og eg veit ekki, hvar saknadar er von, ef ei þar, sem æskumenn á besta aldri verda burtkalladir, þeir sem ekki einúngis eru gáfadir, — gáfurnar einsaml-ar eru ei einhlýtar til saknadar — heldur og eru med því gjætnir, stilltir og dygdugir. Þvílíkir eru von fødurlandsins, gledi og tilhløkkun hinna eldri, heid-ur og sómi ættmanna sinna, og — þó vandalausir séu, géta þeir ei annad enn rennt til þeirra ástaraug-um. — Sérhvør efnilegur og dygdugur únglíngur er øllum mønnum kjær og ástfólginn, og — þó gódum

Gudi sé so fyrir þakkandi, ad vér þekkjum marga medal þeirra, sem verdskuldi elsku vora, munu þó færri finnast, sem ad øllu jafnist vid þann, sem nú eptir lánga mædu lífsins er búinn hér ad finna hvíld. — Já, stutt var líf hans, en laung var hans reynsla, og, eptir skamma dvøl í þessum heimi, er hann geinginn reyndari, enn flest gamalmenni, inn til hins eilífa lífsins, hvar ei er talid eptir árum, heldur hjartalagi og framferdi. — Þegar á únga aldri, hérumbil 16 ára, veiktist hann af knémeini, sem aldrei yfirgaf hann sídan, þrátt fyrir tilraunir bestu lækna, bædi hér í landi og erlendis, hvar foreldrarnir leitudu honum lækningar, og fóru þau þángad med honum sjálf, — ástin og vonin gaf þeim styrk til ad gánga þenna hørmúnganna veg — en Bjarni heitin fékk þó ei bót meina sinna, — þeim svíadi um tíma, en knémeinid var upphaf og undirrót allra hans veikinda. — Eg vil ei útlista, hvad í því liggi, ad verda veikur strax á æskuskeidi, — fáir skilja, edur einginn, þad hrædilega, sem liggur í því, einkanlega fyrir efnilegan únglíng, nema þeir einir, sem sjálfir hafa reynt. — Ad vita sig hafa gáfur, vilja og laungun til ad komast framm, til gagns og gledi sjálfum sér og ødrum, en eiga ad berjast vid veikindi, sem hepta mann daglega meir edur minna, ad vera úngur og sjá sjaldan gladan dag, þad vil eg ekki útlista fyrir neinum, sem ei þekkir þad. — Þad er sú mesta mædan í hvørri mædu sem er, ad ei má tala um hana eins og hún er, — þad er allt þýngst, sem so er þúngt, ad ei gétur nema á sjálfum leigid. Bjarni sálugi mun um tíma

hafa reynt þetta, hid þýngsta, sem fyrir nokkurn mann gétur komid. — Hans lund var ei ad kvarta edur ad tjá ødrum meinsemdir sínar, enda var hann þá fjærri sínum, og veit eg til bréfs frá honum til eins af systkynum hans, hvar hann eins og tekur til þess, hvør gledi þad sé, ad hafa fødur og módur nærri sér, og géta svalad sér vid þeirra brjóst. Hann gat ei kvartad, hann var einn so gjørdur, ad hann — bar sinn harm í hljódi. — Ungur og skynsamur únglíngur, eins og hann var, sem á í þjáníngum, finnur brátt, í hvørjum heimi hann er, ad hann er í vondum og spilltum heimi, hvar fáir vorkénna æskunni, þegar hún á bágt, hvar ekki einn af þúsund, síst af þeim, sem sjálfir eru úngir og hraustir, kunna ad taka hluttdeild í tilfinníngum æskumannsins. — Eg vildi, ad bædi eldri og ýngri hyggdu ad þeirri Guds rádstøfun, sem mér finnst audsjáanleg, ad hann vildi teingja æskuna saman vid ellina, so ad, hvønær sem æskan lídur, þá er henni helst hugsvølunar von vid brjóst hinna eldri, eins og hitt, ad hvønær sem sorgin leitar á gamalmennid, þá er æskan honum hentust til upplífgunar. En — æskan vill vera hraust og sterk, hún vill ei láta sjá á sér bilbug, hún á bágt med ad láta uppi harm sinn, og — hinir eldri hafa ei ætíd nærgjætni med henni, — því — fáir vilja sína barnæsku muna, enda er ekki øll æska med einu móti. Ei mátti seinna vera fyrir Bjarna sáluga, ad komast í foreldrahús, og géta fundid hjørtu, er skildu raunir hans, géta auglýst sig fødur og systkynum, og einkanlega, ad géta svalad brjósti sínu vid hid trúfasta módurhjarta, — módurhjartad

sagdi eg, — hvør af oss. Adams léttúdugu sonum, skilur hvad í því liggur, ad vera módir, hvad þá, ad vera góð módir? — Hann kom soo veikur aptur til landsins, ad hann átti ei annad eptir, enn — ad leggjast, og lída sárar þjáníngar, og so deya — og — sú var híngadkoma einhvørs þess efnilegasta æskumanns, sem eg hefi þekkt, — og ekki var ein báran støk, en þær løgdust margar á eitt, til ad gjøra þetta ad brimróti hørmúnganna.

Eg veit, ad eins og komid var, lofa allir góðir menn Gud fyrir hans frelsi, og eg lofa Gud med þeim, foreldrarnir gjøra þad líka, jafnvel þad hjartad, sem eitt sverd hefur gégnumstúngid, gjørir þad med oss ødrum, sem fjær støndum, — en eg fæ ei dulid þá mína tilfinníngu, ad eg gét ei fagnad, eins og væri eg gladur, — eg á eingan føgnud nema þann, sem drýpur úr tárum mínum. En — tilheyrendurnir hugsa másské, ad eg þylji raunatølur mínar, en gleymi þeim, sem vidstaddir eru. — Einginn géfur nema þad, sem hann á, en — eign mín í dag er sorg og harmur. — Hvad viljid þér, ad eg helst tali um? — Kannské um lífid? — Þeir þekkja þad, sem hafa reynt þad, og haft vit á, eptir ad taka, en — lítt mundi eg nú géta sagt af því gledilegt. — Kannské eg eigi heldur ad tala um daudann? — Þad mundi mér gédfelldast, því øll þau gjædi, — og þau eru mørg og mikil — sem því fylgja, ad fædast og lifa, eru þó bundin vid þad, ad Gud hefur af náð sinni ákvardad øllum mønnum ad — deya. — Lífid helgast af daudanum.

En — þó vil eg heldur tala um lífið, en það skal vera fáordt, og ekki í almennu máli, heldur um líf þess hjartkjæra æskumanns og frænda, sem liggur nár í þessari kistu. — Hans líf var ei sem almenníngs, það var í mørgu einstakt og frábrugðið.

Þegar í æsku var hann eins og hneigður til alvørugéfni, snemma námfúss, hlýðinn og auðsveipur, dulur og gáskalaus, en þó heilsugóður og viðfelldinn við alla í umgeingni. Hvør sem honum sagði til, þá elskuðu allir kénnendur hann umframm flesta aðra lærisveina; hann var velgáfaður, — en gáfur géta menn aldrei greint frá lund og hugarfari, þar bindur hvað annað meir, enn menn venjulega taka eptir. — Gáfur hans sýnduſt ei sérlega fljótar, menn tóku meir eptir greindarkrapti hans og hyggjuviti, því honum var eins og eðlilegt, að miða sérhvurt málefni við skynsamlegt athygli, og koma hvervetna fyrir sig yfirvegan. Við þessar ágjætu, reyndar bestu lærdómsgáfur, sameinaði hann óhvikula ástundan, og þá viðleitni, — sem ei síður lá í hugarfarinu, enn í gáfunum — að komast að undirstøðunni í hvørju einu, sem hann lagði fyrir sig. Menn gátu því ei annað, enn gjørt sér mikla von um lærdómsmenntan hans, og það var sú gjæfan, sem Guð sæmdi hann með, að hann allt til dauðadags fullnægði þeirri von, sem bæði ráðvandir og lærðir menn gjørðu sér um hann. Alstaðar, bæði hér í skóla og ytra við háskólann, gékk honum ágjæta vel. Við háskólann var hann innkallaður eptir annað lærdómspróf, enda

var hann á þeim tímum, — þótt hann sífeldt og daglega væri þjádur af knémeininu — sæmilega hraustur.

Eptir þetta tók hann fyrir sig erfída og þreytandi lærdómsydn, sem kallast „málfrædin mikla", og þad, sem medframm dró hann til þess, var þad, ad hann ei treystist vegna heilsunnar, ad gánga til embættis, er útheimti ferdaløg, og æskti því heldur, ad ná í skólakénnaraembætti, enda munu so margbreytt og umfángsmikil vísindi hafa verid honum skapfelleg. En um þessar mundir hófst upp aptur heilsuránid, og mun þad fáum, eda ef til vill eingum, allskostar kunnugt, hvørsu mikid hann tók út upp þadan. — Þótt hann gjæti verid á felli, var hann aldrei nokkurn dag allskostar heilbrygdur, lestur fór ad þreyta hann, og hann gat ei tekid nærri sér, án þess ad hann veiktist, svefninn flúdi hann, og ánægjan af lífinu, sem so er djúpt innrætt hinni blessudu æsku. — Allt fyrir þad byrjadi hann, meir af vilja enn mætti, á sínu seinasta lærdómsprófi, en gat þá ei leingur adstadid, og vard ad flýa þángad, hvar hann var viss um hjørtu til ad hjúkra sér, og rúm til ad deya í. Eg þarf ei ad minnast þess, hvørrar adhjúkrunar hann naut, hún veittist honum í bestu foreldrahúsum, og lækníngatilraunir voru vidhafdar med alúd og vidkvæmni hjartans, og óþreytanlegri ástundan, sem verdskuldar vidkomenda ástúdlegasta þakklæti. Þolinmædi Bjarna sáluga í hans lángsæru þjáníngum var frábær og sjaldgjæf, so hún mundi þykja merkileg af øldrudum dánumanni, hvad þá æskumanni. Rósemin var søm og jøfn, mannúdleikinn og

hid ætíd blída vidmótid og vidtalid, hvør sem til hans kom. Opt var honum ei svefnrótt um nætur, — hvør mundi vaka hjá honum? Pad var fyrst Gud, og þarnæst módirin, — og ræddu þau þá, módir og sonur, margt saman, og geymir hún, og mun leingst geyma í hjarta sínu, mørg þau ord, sem hinn gódi sonurinn þá mælti til hennar, sem eittsinn hafdi borid hann undir hjarta sínu, og alla tíma fyrir brjósti sér, til hennar, sem sorgbitin, en þó kjarkmikil, stód undir krossi sonarins. Rádvendni þessa æskumanns var bædi fyrr og seinna alkunnug og vidurkénnd af øllum, sem þekktu hann, — og á þessum alvarlega tíma lofa eg miskunsaman Gud fyrir þad, ad aldrei gat nokkur madur borid honum né hina minnstu óreglu í lifnadarhætti hans. — Samvitskusemi hans var svo næm, ad hann gat tekid nærri sér margt hvad, sem adrir hafa ad vettugi, og gjørt sér órótt af því, sem almenníngur géfur ei gaum ad. Hjarta hans var sem helgad af ædri anda, anda vitskunnar og réttlætisins, — hann þjónadi Gudi alltífrá æsku sinni, og hann dó sem hans elskulegt barn, — himininn fagnadi, þegar hann hvarf hédan, þessi yndæla von føđurlandsins, og væntanlega hrósan vísindamannsins, þessi blídi, ástúdleigi og mannvænleigi sonur foreldranna. Strángt var strídid, medan þad stód, — þeir muna til þess, sem sáu þad, en — **dagur so lángur aldrei er, ad ei med kvøldi endi.** Hann trúdi á Jesúm Krist, og styrkti sig undir daudann med því, ad minnast hans, og mér virdtist so, sem Kristur kjæmi sjálfur strax á eptir, til ad leysa fjøtur þessa síns

lærisveins, sem hann vissulega hafdi útvalid af heiminum, og Gudi séu þess eilífar þakkir, ad hann er þess verdugur, ad vera hjá Kristi. Baráttan er nú yfirstadin, — þessi merkileigi æskumadur er búinn ad sigra verøldina, og hinir heiløgu, sem á himnum búa, hafa þegar fagnad þessum únga píslarvotti Drottins, og leidt hann inn í samfélag heilagra, hvar hann átti heima; þad var af mørgu bersýnilegt, ad hann átti ekki hér heima. Þad er bágt, ad vera á hrakníngi í þessum heimi, — vel sé øllum, sem komast heim til sín.

Harmþrúngnir og reyndir foreldrar eiga eptir miklu ad sjá. En — eins og komid var, ad ei var fyrirsjáanlegt, ad heilsa gjæti framar veitst þessum þeirra elskulega syni, lofa þau Gud, sem honum hefur géfid hvíld og frid og allra meina bót. — Hann er sæll, um þad erum vér vissir, en þeir, sem trega hann, eru ekki sælir, tár þeirra bera þar um ljósastan vottinn, en sá tími mun þó koma, ad Gud einnig afþerri þeirra tár, — og med þessari von skulum vér allir, sem staddir erum í fallvaltri veru þessa heims, hughreysta hvør annann. — Hvad á eg fremur ad seigja? Aldrei hefur mér bodist betra tækifæri, til ad ávarpa æskumennina, og setja þeim fyrir augu gott eptirdæmi, er þeim sæmi ad stæla eptir. — En sá, sem lítur þessa kistu, og skilur þad ei, þó eg þeigi, sá mundi ei heldur skilja, þó eg taladi. — Daudinn talar opt betur, enn lífid, og sá mállausi verdur opt málsnjallari, enn sá talandi. — Hvør eyru hefur ad heyra, hann heyri, hann heyri hvad daudinn seigir, — hann heyri hvad

hinn málleusi talar. — O æskumenn! Gud gefi ydur, ad verda eins og þessi var, ad sidgjædum, ráðvendni, gáfum og ástundan; en hann virdist ad vardveita ydur í Jesú nafni, frá ad rata í adrar eins raunir og lángsærar þjáníngar. En — sé þad hans vilji, ad þér eigid ei hjá slíku edur þvílíku ad komast, þá veiti Gud ydur, ad líða eins og hann leid, ad sigra eins og hann sigradi, ad deya eins og hann dó. — Lof sé gódum Gudi, sem honum hefur sigurinn géfid fyrir Drottinn vorn Jesúm Krist.

Eg vil hætta øllum raunatølum, en lofa Gud fyrir allt, sem hann hefur gjørt, er hann gaf foreldrunum og ødrum, ad líta so hreint og óspjallad æskulíf, — þess minníng vari í úngum og óspilltum hjørtum!

Vér eigum enn þá eitt eptir, — þad er ad fylgja þeim helgum dómi, sem hér er skrínlagdur, inn í reitinn Guds barna. — Brádum munu adrir veita fleiri edur færri af oss þá sømu þjónustu, og fylgja oss þángad, hvar ekki framar heyrist kvalarans raust. — Gud miskuni øllum á þeim deigi, — og hann huggi bædi nú og endranær alla þá, sem syrgja. Amen!

†

Hér er lagdur til lífs dáinn

# BJARNI SIVERTSEN.

Hann fæddist 25. Martii 1817,
útskrifadist úr Bessastada skóla 1836,
tók sama àr fyrsta próf vid Háskólann
med heidri,
og annad pròf med innkalli 1837,
leysti af hendi skriflegt próf í Málvísi 1843, en
vard sjúkdóms vegna ad fara út sama ár,
og andadist í foreldra húsum
þ. 20. Dec. 1844.

---

*Æfin vard skammvinn, og þó böli blandin,*
*en lífid heidarlegt,*
*því Hann afladi sér nytsamrar þekkingar,*
*loflegs ordstírs og hylli allrà gódra manna:*
*því gáfurnar voru farsælar, lundin spök,*
*hugarfarid hreint.*
*Í Honum misti födurlandid besta manns efni,*
*og efni í mikinn og djúpvitran lærdómsmann.*

---

*Opt falla fróns þau hin fögru tré,*
*en stendur feyskinn stofn.*

S. Egilsson.

# Saknadarstef

eptir

## Stúdent Bjarna Sivertsen,

undir fósturjardar nafni.

---

1. Æ hvad sveitist eg af gráti,
aldin módir, þá frumgródans
kreinkja fjør á kulda vori
kjælulyndir banavindar;
náttfallstár þó miklu meiri
mína væta kinn um nætur,
þegar arfa úngra fjørvi
eydir Skuld og daudans kuldi.

2. Vinarstjarna mín á morgni
mildum skein í lopti hreinu,
þegar einn, mitt óskabarnid,
æskuljómans prýddist blómi;
Bjarni Sigurds mannvænn møgur
mínu laut ad geymslu skauti,
unadsgeisla hvarf þá hríslan
húms í kyrd, og stjarnan byrgdist.

3. Ellistodar efnividur
ástkjær minn og brædra sinna,
fagurgrænn af gódum stofni,
gat ei leingur vaxa feingid;

fjörug æska og andarþroski
aldri með hann prýða réðu,
mennta góðra unni auði,
eingil-dygðir hjartað byggðu.
4. Lifðu sæll! við himins heillir,
hvar þú, arfi minn! fær starfað
helgum skóla í um eilífð,
andinn vísdóms þig upplýsi.
Ofar gröf í blessun blífi
blómi þinn og dygða minning,
þeir, sem gráta þig nú látinn,
þér samfagni! Jeg mun þagna.

B. B.

---

## Bjarni Stúdent Sivertsen.

---

Lagið: Sæli bróðir, sár er missir þinn, etc.

1. Svo er, þegar sálarhúsin smá
örmagnaður andinn skilur viður,
æfinlegur svo að veitist friður,
:,: eins og böndum fánginn losni frá. :,:
2. Yfir jarðar dimma og þúnga djúp
sálin eins og svanurinn úngi flýgur,
sólna og hnatta milli í loftin stígur,
:,: en eptir lætur líkamann í hjúp. :,:
3. Andinn líður lofta milli þá
söðull skýa er sólar gulli drifinn,

sækir upp í hisinn eptir hisinn,
:,: uns að hinum hæsta fær að ná. :,:
4. Aldrei þrjóta undrasjónirnar,
aldrei tímans hjól má stöðvun taka,
aldrei sigrar svefninn þá, sem vaka
:,: og lifa hátt í ljósum eilífðar. :,:
5. Bjarni kaupmanns burinn Sigurðar
kjæti slíka keypti sér með dauða,
kraminn leingi byrði sárra nauða,
:,: krossinn sinn hann karlmannlega bar. :,:
6. Nú viðskilinn náðu hæstu fró!
dygða og vitsku dýrust laun svo takir,
í Drottins allra hluta ríki vaki
:,: blíðlát sál, en blundi það, sem dó. :,:

S. Breiðfjörð.

---

## Hugrenning eins vinar

### við banabeð

## Bjarna Students Sivertsen.

---

Dimmt er á jörðu,
dapurt er í heimi,
hér dvín ei sorg og sút;
því lángar oss
til ljóssins heima,
þar er böli bót búin.

---